Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

9. tölublað | Þriðjudagur 27. febrúar 1979 | 8. árgangur | verð kr. 100.-



## Hvar mætti spara í ríkisrekstrinum?

Sem kunnugt er hefur ríkisstjórnin ákveðið að "spara" á nokkrum sviðum í ríkisrekstrinum. Öll þessi sparnaðaráform eiga það sameiginlegt að ráðist er að launum ríkisstarfsmanna, starfsöryggi eða á almenna þjónustu ríkisins.

Til dæmis er kaup sjúkraliða og Sóknarkvenna lækkað sem um leið hlýtur að þýða minnkandi þjónustu viðkomandi stofnana og aukið álag á starfsfólkið. Til stendur að fjölga nemendum í bekkjum. Það hefur í för með sér að hægt er að fækka kennurum, vinnuálag á hinum eykst og kennslan verður lélegri.

En hver er þörfin á sparnaði? Og mætti ekki spara á öðrum sviðum?

Eftirfarandi grein er unnin upp úr Fjárlögum fyrir árið 1979. Þar getur að líta eftirtektarverðar staðreyndir, bæði hvað varðar sóun og óþörf útgjöld og hvað varðar tekjur ríkissjóðs, þ.e. hvaðan tekjurnar koma.



Hin nýja Orion flugvél "verndarans" en í hann eyðir íslenska ríkið 300 milljónum að minnsta kosti svo hann geti betur verndað hagsmuni USA á Íslandi.

Í kaflanum um æðstu stjórn ríkisins getur að líta tvo kafla sem gjarna mættu missa sín. Þeir eru sérfræðileg aðstoð við þingflokkana, kr. 24.400.000, og til þingmannasamtaka NATÓ kr. 2.970.000. Fleiri útgjöld eru varðandi NATÓ og herinn. Ber þar að nefna Varnarmáladeild, sendiráð Íslands hjá NATÓ og löggæslu á Keflavíkurflugvelli. Þetta hljóðar upp á að minnsta kosti 200 milljónir. Auk þess getur að líta lið sem heitir Tillag til NATÓ og hljóðar upp á 49.9 milljónir.

Eins og sést hér að ofan fá þingflokkarnir peninga til að kaupa sérfræðiaðstoð. Þetta er ekki það eina sem stjórnmálaflokkarnir hafa nælt sér í af peningum ríkisins. Ríkið kaupir 250 eintök af hverju dagblaði. Þessi kaup hljóða upp á samtals um 75 milljónir og geta ekki skoðast sem annað en styrkur til útgáfustarfs.

framhald á síðu 2



Rányrkja veldur fyrr eða síðar atvinnuleysi meðal sjómanna.

## Hverjir eru fiskifræðingar?

Fiskifræðingar hafa sent frá sér skýrslu nýlega þar sem mælt er með að þorskveiðar séu bundnar við 250.000 tonn. Útgerðarmenn og stjórnmálamenn telja sig vita betur og vilja að sóknin sé bundin við 300.000 tonna hámarksafla.

Lúðvík Jósefsson sagði meira að segja á þingi að fiskifræðingar gengju út frá vitlausri stofnstærð.

Það er því ekki að undra þótt spurt sé hverjir eru fiskifræðingar?

Útgerðarmenn hafa aðeins eitt markmið: Það er að ná sem mestum gróða. Þess vegna líta þeir fyrst og fremst á stundarhagsmuni en ekki til langs tíma. Fiskifræðingar hafa áður varað við ofveiði á þorski og raunar öðrum tegundum en álit þeirra hefur alltaf verið hunsað.

Á sama tíma og flestir stjórnmálamenn virðast vilja láta veiða meira en fiskifræðingar telja ráðlegt þá eru keyptir fleiri togarar til landsins. Afleiðingin verður sú að fleiri skip veiða minni afla. Eðlilega verður slík framleiðsla óhagkvæm.

Þetta er einkennandi fyrir auðvaldsframleiðsluna. Ef einhver framleiðslugrein þykir áhugaverð til að fjárfesta í

framhald á síðu 2

## Samfylking vinstrimanna í Háskóla Íslands

Vinstrisinnaðir stúdentar hafa nú sameinast í eitt félag og er þá úr sögunni sá klofningur sem hefur verið meðal þeirra en eins og menn muna þá klauf nokkuð stór hópur sig út úr Verðandi í fyrra og skoraði á stúdenta að skila auðu í kosningunum þá. Verðandi hefur með þessu verið lagt niður.

Laugardaginn 24. febrúar sl. var félagið formlega stofnað. Samþykktar voru starfsreglur og stefnuskrá og fimm manna framkvæmdaráð skipað. Félaginu er ætlað að skipuleggja pólitíska starfsemi er ekki fellur undir Stúdentaráð.

Einnig skal felagið sjá um kosningaþátttöku vinstrimanna í háskólanum og gefa út blað.

Stofnun félgsins kemur til vegna skipulagsleysis þess sem verið hefur innan Verðandi. Verðandi var ekki orðið annað en kosninganafn án innra skipulags. Það var orðið nauðsynlegt að fá nýtt félag þó ekki væri nema til þess að auðvelda störf fyrir kosningar. Með félaginu hefur hreyfing vinstri manna fengið starfsreglur, ákveðnir aðilar hafa verið gerðir ábyrgir og markmiðin hafa verið dregin upp.

Í stefnuskrá félgsins segir: "Félag vinstri manna er víðtæk samfylking vinstrisinnaðra stúdenta..... Vinstri menn berjast fyrir jafnrétti til náms.....En jafnrétti til náms felur líka í sér að innhugur hans stendur til...... Vinstri menn berjast fyrir lýð.



Háskóli Íslands.

framhald á síðu 2

LEIÐARI

# Sovétríkin bera ábyrgð á styrjöldinni í Indókína

Þau átök sem staðið hafa skamma hríð á landamærum Kína og Víetnam og valdið ugg og kvíða víða um heim eru engan veginn sprottin úr tómarúmi né heldur verða þau skýrð sem aldagamalt bergmál fornra væringa þessara þjóða. Styrjaldir og stríðsátök verða ekki vegna andúðar og tortryggni sem ríkir milli alþýðunnar í tveimur eða fleiri löndum. Þau eru afleiðingar af hagsmunatogstreitu og baráttu stéttanna í þessum löndum. Átökin í Víetnam eiga sér pólitískar forsendur í samtímasögunni. Þau eru aðeins nýtt stig þeirrar baráttu sem háð hefur verið í Indókína á síðustu áratugum. Meðan á baráttu víetnama gegn bandarísku heimsvaldastefnunni stóð veittu kínverjar þeim dýrmætan og mikinn stuðning. Vinátta þessara þjóða var innsigluð í sameiginlegri baráttu gegn erlendri innrás. En nú, aðeins fjórum árum síðar, berast þessi ríki á banaspjótum.

Þessi breyting verður ekki skýrð með einhverri tuggu um aldagamla óvináttu þjóðanna því hún á sér beina skýringu í þeim atburðum sem gerst hafa frá lyktum Víetnamstríðsins.

Forvígismenn suður-víetnömsku þjóðfrelsisfylkingarinnar og stuðningsmenn hins látna leiðtoga víetnama, Hó Chi Minhs, biðu lægri hlut í baráttu gegn Moskvusinnaðri klíku Dongs og Giaps. Frú Binh og aðrir forystumenn Þjóðfrelsisfylkingarinnar hafa verið hreinsaðir burt og í stað þeirra bandarískra hernaðar- og efnahagssérfræðinga sem áður gistu Saigon hafa rússneskir sérfræðingar komið.

Vinslit víetnama og kínverja eru sprottin úr þessum jarðvegi. Orsökin fyrir styrjaldarátökunum nú er sú að Sovétríkin hafa att víetnömum út í árásar- og yfirgangsstefnu í Asíu, sem helst minnir á japanska hernaðarfasismann. Á sama hátt og kúbanir halda á sovésku byssustingjunum í Afríku hafa víetnamar gengið erinda sovésku drottnunarstefnunnar í SA-Asíu.

Kínverjar óska ekki eftir styrjöld, hvorki við víetnama né aðra. En þeir geta heldur ekki annað en varið hendur sínar þegar á þá er ráðist. Síðan 1975 hafa víetnamar haldið uppi stöðugum árásum á landamærahéruð Kína, myrt fjölda fólks, sprengt upp lestir og hús og hvað eftir annað ruðst yfir landamærin til hermdarverka. Þessi vinnubrögð eru nákvæmlega þau sömu og notuð voru við landamæri Kampúchea. Þar réðust víetnamar hvað eftir annað yfir landamærin en ákærðu síðan Kampúcheu fyrir glæpi og árásir. Í von um samúð sem alþýða heimsins hafði með baráttu víetnama gegn bandarísku heimsvaldastefnunni mundi duga þeim til að breiða yfir sannleikann um árásarstefnu hinnar Moskvusinnuðu valdaklíku. Valdhafar í Víetnam ætla sér að notast við samúðina sem þeir öfluðu sér með frelsisbaráttu sinni. En þessi samúð mun dvína og snúast upp í andstöðu þegar almenningi verður ljóst að nota á stuðning hans til að breiða yfir glæpaverk Hanoistjórnarinnar.

Hinn raunverulegi árásaraðili og sá sem verður að bera fulla ábyrgð á styrjöldinni í Víetnam í dag er Sovétríkin. Það duldist engum að Saigonstjórnin var á sínum tíma ekki annað en leppur bandarísku heimsvaldastefnunnar. Og það mun heldur ekki dyljast til lengdar að Hanoistjórnin er ekki annað en leppur Sovétríkjanna. Við hljótum því að styðja Kína í baráttunni kínverja gegn árásar- og útþenslustefnu Sovétríkjanna í SA-Asíu.

# Hvar mætti spara í ríkisrekstrinum?

framhald af forsíðu

flokkanna. En þetta hefur þeim greinilega ekki fundist nóg. Dagblöð stjórnmálaflokkanna fá 60 milljónir til að skipta á milli sín. Þannig fá stjórnmálaflokkarnir samtals tæpar 160 milljónir í sinn hlut og er þó ekki allt talið. Til viðmiðunar má geta þess að áætlaður sparnaður vegna fækkunar kennara er um 70 milljónir.

Á þessum fjárlögum er einnig veitt til byggingar Þjóðarbókhlöðu krónum 75 milljónum

Þessu til viðbótar má vekja athygli á því að ekki stendur á fjármagni þegar ráðnir eru aðstoðarráðherrar, blaðafulltrúi ríkisstjórnarinnar, keyptur bíll handa iðnaðarráðherra eða ákveðin eftirlaun handa föllnum þingmönnum.

## Kaup þingmanna og kirkjan.

Að síðustu mætti nefna tvö atriði sem eru stór og mætti minnka til sparnaðar.

Laun þingmanna, þ.e. þingfararkaup, eru um það bil 8.5 milljónir á ári eða rúmlega 700.000 á mánuði. Nokkrir þingmenn hafa flutt tillögu á þingi um hámarkslaun sem ættu að vera tvöföld verkamannalaun. Þingmenn gætu sýnt gott fordæmi og lækkað laun sín niður í ca tvöföld verkamannalaun, til dæmis 350.000 á mánuði. Þar með myndu útgjöld ríkisins lækka um 250 milljónir.

Að síðustu mætti nefna það að afnema tengsl ríkis og kirkju. Kirkjan þiggur hvorki meira né minna en 852.8 milljónir. Væri þessu fjármagni ekki betur varið til uppbyggingar skóla eða sjúkrahúsa eða til þess að hækka laun lægstlaunuðu ríkisstarfsmannanna svo eitthvað sé nefnt? Og kannski líka meira í samræmi við kenninguna.

## Tekjur ríkisins.

En lítum aðeins á tekjur ríkisins. Að langmestu leyti eru þær komnar frá launþegum. Atvinnurekendur greiða aðeins lítinn hluta tekna ríkisins.

Að vísu hafa álögur á atvinnureksturinn hækkað lítillega einkum er varðar eignaskatt. Eignaskattur einstaklinga er tæpir 2 milljarðar en eignaskattur félaga er um 2.5 milljarðar.

Tekjuskattur einstaklinga er hins vegar rúmlega 23 milljarðar meðan félög greiða aðeins tæpa 8 milljarða. Auk þess má nefna sjúkratryggingagjald sem einstaklingar greiða en það er um 4 millj. Alls eru beinir skattar rúmir 46 milljarðar og af því greiða einstaklingar um 30 milljarða eða 2/3. Atvinnurekendur greiða rúma 10 milljarða auk framlaga í atvinnuleysistryggingasjóð sem í raun eru laun.

Aðrar tekjur ríkisins eru óbeinir skattar, tollar, vörugjald og söluskattur. Allir þessir skattar koma út í verðlagið og eru þannig greiddir af neytendum sem að meirihluta eru launþegar. Samtals eru þessir óbeinu skattar um 160 milljarðar.

Þannig sést þegar allt kemur til alls að allt eins gæti komið til greina að auka tekjur ríkissjóðs. Atvinnurekendur hirða bróðurpartinn af framleiðslu verkalýðsins og þar með verðmætum þjóðarinnar. Aukin skattheimta á atvinnurekendur yrði einfaldlega til þess að sá hluti sem fer í einkaneyslu þeirra rynni heldur til sameiginlegra þarfa þjóðfélagsins. Á sama hátt er krafan um hærra kaup aðeins krafan um að minnka gróða atvinnurekenda.

Krafa launþega hlýtur því að vera sú að tekjuskattur einstaklinga sé lagður niður og atvinnureksturinn skattlagður í staðinn. Hann getur staðið undir meiri skattlagningu. Þetta er aðeins spurningin um það hve stór hluti framleiðsluverðmætanna eigi að vera einkagróði atvinnurekenda.

# Samfylking vinstrimanna í Háskóla Íslands

framhald af forsíðu

ræðislegu námi.....Nemendum verður að gefast kostur á að nálgast námsefnið á gagnrýninn hátt og samtökum stúdenta ber að styrkja viðleitni námsmanna til slíkrar fagrýni.....Krafan um lýðræðislegt nám þýðir líka að krafist sé lýðræðislegrar stjórnunar HÍ. Markimiðið ætti að vera að þeir sem vinna við Háskólann, nemendur, kennarar og annað starfsfólk, hafi jafnan atkvæðisrétt um stjórnun hans." Ekki gátu allir fellt sig við þessa síðustu setningu og var það hægri kantur samfylkingarinnar sem andmælti. Atkvæði voru látin skera úr þessum ágreiningi.

**Um stefnuna út á við segir:** "Vinstri menn líta svo á að í baráttu sinni eigi samtök stúdenta samleið með verkalýðshreyfingunni. Þeim ber að styðja baráttu verkalýðshreyfingarinnar fyrir mannsæmandi kjörum og bættu samfélagi og jafnframt ber þeim að krefja verkalýðshreyfinguna um stuðning við jafnréttis- og lýðræðiskröfur sínar. Vinstri menn styðja baráttuna gegn veru hersins á Íslandi og fyrir úrsögn Íslands úr NATÓ og baráttu gegn heimsvaldastefnu og pólitískri kúgun um allan heim. Þeir fagna aukinni alþjóðasamvinnu stúdenta og vilja stuðla sérstaklega að nánu samstarfi stúdentasamtakanna á Norðurlöndnum."

Stéttabaráttan lýsir ánægju sinni með þennan sameiningarsigur vinstrisinnaðra stúdenta og lofar félaginu öllum stuðningi sem blaðið getur látið í té.

# Hverjir eru fiskifræðingar?

framhald af forsíðu

þá er fjárfest þar grimmt burt séð frá þörfinni. Þannig var það líka þegar allur skuttogaraflotinn var keyptur til landsins. Útgerðarmenn fengu togara næstum gefins en smápláss úti á landi fengu minni fyrirgreiðslu. Síðan er allur þessi floti látinn moka upp afla, einkum þeim fiskitegundum sem hæst verð fæst fyrir. Aflinn er hins vegar takmarkaður og því minna sem veiðist eða veiða má, því óhagkvæmari og óhagstæðari verður útgerðin.

Endirinn verður sá sami og á öllum síldarævintýrum Íslendinga. Atvinnuleysi tekur við af uppganginum.

Framleiðslan er rekin með einkahagsmuni fáeinna auðherra fyrir augum.

Þess vegna er ekki tekið mark á fiskifræðingum því það mundi þýða minnkandi gróða útvegsmanna.

Þingmenn dubba sig einfaldlega upp í fiskifræðinga og koma með nýjar kenningar um líf fiska.

## Atvinnuleysi.

Ekki er hægt að líta fram hjá því að til alvarlegs atvinnuleysis gæti komið ef dregið yrði úr sókn í þorsk að öllu öðru óbreyttu.

Skipulagsleysið veldur því að það sem ekki skapar auðunninn og skjótfenginn gróða er alls ekki nýtt. Til dæmis má nefna aðrar fiskitegundir en þorsk. Af því að þorskur gefur af sér hærra verð er sókninni beint svo mikið í hann.

Þess vegna er mikil hætta á atvinnuleysi ef ekki verða gerðar ráðstafanir til að auka atvinnu að sama skapi. Má þar nefna iðnað o.s.frv.

## Að draga úr fiskveiðum.

Niðurstaðan hlýtur að vera sú að draga beri úr sókninni en jafnframt að gera þá kröfu til ríkisstjórnarinnar að hún geri ráðstafanir til að halda uppi fullri atvinnu með sköpun nýrrar framleiðslu.

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl. 16:00 - 18:30.

HELLISSANDUR
Sigfús Almarsson
Hellisbraut 10.

AKUREYRI
Jón Atli Játvarðsson
Skarðshlíð 30.

HÚSAVÍK
Gestur Ásólfsson
Garðarsbraut 69

HORNAFJÖRÐUR
Margrét Einarsdóttir
Silfurbraut 2

KEFLAVÍK
Einar Jónsson
Sólvallagötu 40c.

HAFNARFJÖRÐUR
Fjóla Rögnvaldsdóttir
Reykjavíkurvegi 24.

# Endurminningar Tryggva Emilssonar

**Dufþakur**

Því hefur löngum verið haldið fram, að Íslendingar séu mikil bókaþjóð. Þrátt fyrir tilkomu sjónvarpsins hefur bókalestur okkar ekkert dvínað að marki, því ekkert lát er á útkomu bóka og enn er mikið lesið. Endurminningar hafa og löngum verið vinsælt útgáfuefni, en gæði slíkra bóka er að sjálfsögðu æði misjafnt. Af öllum þeim aragrúa endurminninga, sem færðar hafa verið í letur á síðustu árum, má með nokkrum sanni segja, að ævisaga Tryggva Emilssonar, verkamanns, gnæfi þar yfir flest annað, sem gert hefur verið á því sviði. Og svo sannarlega hafa æviminningar Tryggva orðið vinsæl lesning, því tvær útgáfur hafa verið prentaðar með stuttu millibili.

Ævisaga Tryggva Emilssonar skiptist í tvær bækur, Fátækt fólk og Baráttan um brauðið. Báðar eru þær yfirgripsmiklar að efni; sú fyrri fjallar um uppvaxtar- og unglingsár Tryggva, auk þess sem hann rekur þar ættir sínar; síðari bókin nær svo til ársins 1947, en Tryggvi er fæddur 1902.

Tryggvi Emilsson er fæddur í Hamarkoti við Akureyri. Hann ólst upp í mikilli fátækt og þegar hann var aðeins sex ára gamall missti hann móður sína. Var honum í fyrstu komið fyrir hjá skyldmennum í Reykjavík, en er síðan sendur til vandalausra og lenti í mjög illri vist. Faðir hans tekur hann að sér og eru þeir feðgar við kotbúskap í Öxnadal í nokkur ár. Á unglingsárum ræður Tryggvi sig st að Árnesi í Skagafirði.

Þegar nokkuð er liðið á þriðja áratuginn stofnar Tryggvi til eigin búskapar í Öxnadal, en entist ekki lengi í því og flyst aftur til Akureyrar, þar sem hann leggur stund á verkamannavinnu af ýmsu tagi.

Þetta er um 1930 og þá hefst nýr þáttur í ævistarfi Tryggva. Þetta er á tímum kreppu og atvinnuleysis, á tímum harðnandi stéttabaráttu og verkalýðshreyfingar í vexti. Tryggvi tekur þátt í þessari baráttu af lífi og sál og hann lýsir ýmsum atburðum á þessu sviði mjög ítarlega.

Það er auðvitað að bera í bakkafullan lækinn að fara að endursegja hér frásagnir Tryggva af lífi og starfi þess alþýðufólks, sem hann kynnist á lífsleiðinni. Það sem vekur hvað mesta athygli við lestur þessarar bókar er hvílíkt vald Tryggvi hefur á íslensku máli, sérstaklega þegar haft er í huga, að hann naut mjög skammrar skólagöngu.

Frásagnarsnilldin er alveg einstök. Það hjálpar þó til, að Tryggvi hefur fengist talsvert við yrkingar um ævina eða allt frá bernskudögum og reyndar hefur hann gefið út tvær ljóðabækur. Þann hæfileika hlaut hann í arf frá föður sínum, sem gerði mikið af því að búa til ýmis konar lausavísur.

Það ætti að vera skylda hvers manns, sem vill kynna sér aðstöðu og kjör íslenskrar alþýðu fyrri hluta þessarar aldar, að lesa ævisögu Tryggva. Hún er ekki aðeins dæmi um mikla frásagnargáfu verkamanns, sem kominn er á áttræðisaldur, heldur jafnframt ómetanleg lýsing á kjörum alþýðunnar á þessum tíma.



Tryggvi Emilsson.

P.S. Í síðasta pistli þar sem rætt var um bækur Jóns Þorleifssonar, var sagt, að hann hefði hætt að leggja stund á erfiðisvinnu vegna aldurs sakir og heilsubrests. Þetta er ekki alls kostar rétt. Atvinnuofsóknir á hendur Jóni áttu líka sinn þátt í því eins og fram kemur í bók hans, Nútímakviksetning. Hér með er þetta leiðrétt.

# Víetnam: 300þús atvinnulausir án matar?

Matvælaskortur og hungursneyð verður sífellt alvarlegra vandamál í Hó Chi Minh borginni í Suður-Víetnam að því er segir í danska blaðinu Information. Víetnamska ríkisstjórnin hefur minnkað mánaðarmatarskammta úr 15 kílóum í 13. Nú er til athugunar að afnema alveg matarskammta til atvinnulausra í borginni en þeir eru milli 3 og 400 þúsund.

Stefnan gagnvart atvinnuleysingjunum er nk. refsiaðferð vegna þess að þeir hafa ekki viljað flytja til hinna sk. "nýju framleiðslusvæða".

Þessi "nýju framleiðslusvæði" áttu að vera hornsteinn sósíalískrar uppbyggingar í Suður Víetnam. Þessar áætlanir hafa hins vegar mistekist. Sárafáir vilja flytja til þessara svæða ótilneyddir því þeir vita að þar bíður þeirra óhemjuhörð líkamleg vinna, lélegt húsnæði og lítill matur. Þessi nýju svæði hafa fengið svo vont orð á sig að jafnvel fólk úr fátækasta hluta Hó Chi Minh borgar sem býr við hungur og húsnæðisleysi, vill heldur vera þar áfram.

Samkvæmt upplýsingum blaðamanns Information, sem hann hafði frá fólki á svæðinu, bjó um 5-10% alls fólks á þess um nýju svæðum við "góðar kringumstæður" meðan aðstæð úr hinna voru "slæmar".

Hótunin um að svipta atvinnuleysingjana matarskömmtum er til að neyða þá til að flytja til "nýju svæðanna". Svartamarkaðsbraskari sem verslaði með amerískar vörur sem skildar voru eftir af ameríska hernum sagði blaðamanninum að svartamarkaðsbraskarar væru líka sendir til "nýju svæðanna" ef upp um þá kæmist. Hætt er því við að "hornsteinn sósíalismans" byggður upp á þennan hátt mis takist.

Þó er alls ekki svo að svartamarkaðsbrask sé bannað. Ríkisstjórnin hefur leyft svartamarkaðssölu á hrísgrjónum vegna þess að sl. sumar kom ekki nægilega mikið af hrísgrjónum til borgarinnar.

Banninu við svartamarkaðssölu á hrísgrjónum var því aflétt haustið 1978 en það hafði verið sett árið 1975. Svartamarkaðsverðið er að sjálfsögðu miklu hærra en opinbert verð. Ein ástæða þess að ríkisstjórnin leyfir þetta er að hún sjálf græðir á þessu eins og á flóttamannastraumnum úr landinu en "flóttamönnunum" eru seld fargjöld úr landinu.



Hinir hugprúðu baráttumenn og -konur í Víetnam voru varla að berjast gegn USA nýlendusinnunum til að fá í staðinn USSR.

Víetnömsk yfirvöld kenna flóðunum í fyrra um matvælaskortinn. En samkvæmt opinberum heimildum töpuðust um 3 milljónir tonna af hrísgrjónum af völdum flóðanna. Raunveruleg minnkun hrísgrjónaframleiðslunnar er hins vegar miklu meiri.

Fyrir tveimur árum fengu þeir sem unnu erfiða líkamlega vinnu 24 kíló matar mánaðarlega. Nú fá þeir 13 kíló. Áður var drjúgur hluti matarskammtsins kjöt, fiskur og mjöl en er nú aðeins hrísgrjón. Matvælaframleiðslan hefur því farið hraðminnkandi.

Litlar líkur eru á því að matvælaframleiðslan aukist á næstunni, að minnsta kosti ef "hornsteinn sósíalismans" á að vera nk. fanganýlenda.





## ...í stuttu máli

**ÞINGAÐ UM SKÆRUHERNAÐINN Í KAMPUCHEA**

Útvarp stjórnar Pol Pots í Kampuchea tilkynnti nýlega að haldið hefði verið þjóðarþing í landinu þann 1. og 2. febrúar sl. Þingið var haldið til að ræða hvernig eigi að haga skæruhernaðinum gegn víetnömsku innrásarseggjunum.

413 fulltrúar sátu þingið, þar af 183 sem eru ábyrgir fyrir skæruhernaði á vissum svæðum.

Her stjórnar Pol Pots hefur unnið umtalsverða sigra undanfarna daga og vikur og það þrátt fyrir að víetnamar hafi sent liðsauka til landsins og hafi þar nú um 150.000 manna lið.

Samkvæmt fréttum útvarps stjórnar Pol Pots misstu víetnamar 400 hermenn fallna í byrjun febrúar. Að auki hefur byltingarherinn komist yfir mikið af vopnum.

Skæruhernaðurinn ber því greinilega ávöxt í baráttunni gegn innrásarhernum.

Í niðurstöðum þjóðarþingsins eru meðal annars lögð fram markmið skæruhernaðarins. Þau eru að verja pólitískt vald verkamanna og bænda og steypa leppstjórn víetnama í landinu eins og það er orðað í yfirlýsingu þingsins.

Þingið beindi því einnig til þjóðarinnar að auka matvælaframleiðsluna til að styðja skæruliðana í baráttunni.

**ER LÍBÝA SOVÉSKT VOPNABÚR?**

Hvaða þörf hefur Líbýa fyrir öll þau vopn sem þangað hafa verið keypt? Eða er eitthvað að gerast bak við tjöldin milli Líbýu og Sovétríkjanna.

Her Líbýu hefur yfir að ráða fleiri brynvögnum og skriðdrekum en hermennirnir geta komist yfir að manna. Sovétmenn sjá hernum fyrir meirihlutanum af þessum vopnabirgðum.

Líbýa er olíuauðugt land en þar búa aðeins rúmar tvær milljónir manna. Í her landsins eru 22 þúsund hermenn. Vopnabirgðirnar eru hins vegar gífurlegar.

Það var einkum eftir árið 1970, þegar sovétmenn voru reknir úr Egyptalandi, að sovésk vopn tóku að streyma til Líbýu. Þessi vopn eru þau nýtískulegustu sem sovétmenn hafa upp á að bjóða; meðal annars eldflaugar, skriðdrekar og skotvopn.

Á árunum 1977 og 1978 aðeins jókst stríðsvagnaeign Líbýuhers um 1200 og nú hefur herinn yfir að ráða 1600 stríðsvögnum af ýmsu tagi. Auk þess hefur hann yfir að ráða miklu af sjálfvirkum skotvopnum, brynvörðum farartækjum og eldflaugum. Það síðasttalda hefur herinn keypt frá Frakklandi auk Sovétríkjanna.

Hvaða not hefur herinn fyrir öll þessi vopn? Í ljósi umsvifa sovétmanna og kúbana í Afríku er ekki ólíklegt að þeir séu að koma sér upp vopnabúri í álfunni.

Nágrannaríki Líbýu hafa allavega af þessu þungar áhyggjur, ekki síst Egyptaland og ríkin sunnan af Líbýu. Því eitt er ljóst að Líbýuher kemur ekki til með að nota öll þessi hergögn einn heldur með aðstoð einhverra "vinveittra". Það þarf varla djúpa hugsun til að vita hverjir gætu verið svo "vinveittir".



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan

Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
9. tbl. 8. árg. 27.2.1979



STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.

## Svavar Gestsson, kaupmenn og heildsalar

Svavar Gestsson hefur nokkrum sinnum komist í návígi við atvinnurekendur eftir að hann varð viðskiptaráðherra. Í öll skiptin hefur verið beðið aðgerða af hans hálfu með eftirvæntingu. Margir hafa sjálfsagt búist við úrslitakostum viðskiptaráðherrans sem í ofanálag þykist vera sósíalisti. Það var því ekki óeðlilegt að búast við því að spurningin um þjóðnýtingu kæmi upp. En það varð ekki. Þess í stað samþykkti ráðherrann kröfur atvinnurekenda.

Þannig fengu kók- og smjörlíkisframleiðendur umbeðna hækkun svo og útgefendur dagblaða. Að vísu dansaði ráðherrann smádans til að sýnast og láta ganga á eftir sér.

Það geriri hann sjálfsagt til að láta líta svo út að hann hafi þó reynt en bara ekki tekist.

Síðan þetta varð hefur komið í ljós að heildsalar stela undan skatti og gjaldeyrislögum fleiri milljörðum árlega.
Raunverulega stela þeir þessu af neytendum, sem að meirihluta eru launþegar, með því að allt lendir þetta út í verðlaginu að lokum.

Ekki hefur heyrst mikið frá ráðherranum um þessi mál að undanförnu. Nú er spurningin: Ætlar ráðherrann að refsa þeim seku eða ætlar hann að ganga að kröfum þeirra eftir að hafa tekið nokkur dansspor eins og í fyrri skiptin.

Stéttabaráttan ítrekar þá skoðun sína að heildsalar séu búnir að fyrirgera réttinum til að stunda þessa verslun og raunar sýnir þetta aðeins hve atvinnurekstur er óheilbrigður og spilltur þegar eina markmiðið er einkagróði fáeinna auðmanna sem skirrast einskis í gróðasókn sinni.

Ríkisrekstur innflutningsverslunarinnar undir eftirliti verkamanna og annarra launþega er eina leiðin til að tryggja það að reksturinn sé með heill fjöldans fyrir augum.

Greinilegt er að ráðherrann hefur allt aðra skoðun á málunum eins og betur á eftir að koma í ljós.

Svavar og kaupmennirnir.

Við síðustu gengisfellingu var kaupmönnum meinað að hækka vöruverð um meira en 30% af því sem leiddi af lægra gengi. Nýlega hefur undirréttur dæmt þetta ólöglegt. Það út af fyrir sig vekur upp spurninguna um það fyrir hverja dómstólar séu. Málinu hefur hins vegar verið skotið til æðri dómstóla og eiga lögin þess vegna að gilda á meðan. Kaupmenn hafa hins vegar enga biðlund og þegar er vöruverð tekið að hækka en hækkunin er að sjálfsögðu gersamlega ólögleg.



Svavar Gestsson.

Ráðherrann hafði vitaskuld ekki hugmynd um þetta en í viðtali við Vísi nýlega sagðist hann ætla að athuga málið.

Sl. föstudag kom niðurstaða athugunarinnar og staðfest var frásögn Vísis. En síðan ekki söguna meir.

Þetta er sama sagan og fyrr. Ráðherrann dansar pínulítinn og sætan dans meðan atvinnurekendur fara sínu fram.

Það væri gaman ef ráðherrann væri svona tilþrifalítill þegar ríkisstjórnin er að lækka kaupið.

## Fréttatilkynning frá INSÍ

Fundur sambandsstjórnar Iðnnemasambands Íslands haldinn laugardaginn 17. febr. ´79 ályktar eftirfarandi vegna þeirrar umræðu sem átt hefur sér stað vegna fyrirhugaðra efnahagsráðstafana.

Sambandsstjórnin mótmælir harðlega öllum tilhneigingum í þá átt að skerða umsamin kjör launafólks. Telur stjórnin að þau ákvæði frumvarpsdraga forsætisráðherra er kjaramál snerta séu beint tilræði við afkomu launafólks, og einnig verði m.a. stefnt í stórfellt atvinnuleysi verði frumvarpsdrögin að lögum.

Bendir stjórnin á að verðbætur á laun eru samningsatriði milli verkalýðshreyfingarinnar og "vinnuveitenda" og hefur ríkisvaldið engan siðferðilegan rétt til að breyta því samningsatriði, né hafa forystumenn verkalýðshreyfingarinnar neinn rétt til að samþykkja slíkar breytingar nema með samþykki til þess boðaðra funda í verkalýðsfélögunum.

Gagnrýnir stjórnin verkalýðsforystuna fyrir það að ljá máls á að til greina gæti komið, að breyting á viðskiptakjörum hafi áhrif á verðbætur á laun. Telur stjórnin að með því sé verið m.a. að festa í sessi "kökuskiptingaraðferðina" við ákvörðun um laun verkafólks.

Það er krafa stjórnarinnar að verðbótavísitalan mæli fyllilega hækkun framfærslukostnaðar og verðtryggi þannig umsamin laun.

Stjórnin varar við þeim ákvæðum frumvarpsdraganna sem sjáanlega hafa í för með sér stórfellt atvinnuleysi og bendir á að það er hluti af grundvallar mannréttindum hvers manns að hafa atvinnu.

Aðeins verkalýðurinn sjálfur getur staðið vörð um hagsmuni sína og skorar því stjórnin á verkalýðshreyfinguna og forystu hennar, að standa fast á umsömdum og lagalegum réttindum launþega og hrinda af fyllstu hörku öllum árásum á þessi réttindi.

Rvík. 17/2 1979.

Iðnnemasamband Íslands.

Óánægja með ríkisvaldið verður stöðugt meiri meðal félagsmanna í launþegasamtökunum. Eftir öll svik þingmannanna ættu þeir í raun að hafa verið settir af fyrir löngu. En þeir sitja sem fastast í stólum sínum múraðir innan veggja þessa húss.



## Krafa íhaldsins: Að einkafjármagninu verði afhent ríkisfyrirtæki

Sjálfstæðisflokkurinn hefur löngum gert þá kröfu að ríkisfyrirtæki verði lögð niður og færð í hendur einkaeigendum. Þessi krafa er studd þeim rökum að ríkisfyrirtæki séu rekin með tapi og geti ekki annað vegna "eðlis ríkisfyrirtækja".

Þetta "eðli" eða öllu heldur "óeðli" rekja þeir til þess að hvorki stjórnendur né verkamenn þessara fyrirtækja hafi af þeim hagnað, það vanti hvatann. Hvati er á tungumáli íhaldsins það að vera rekinn áfram af ásókn í einkagróða einungis. Ef þetta væri satt þá ætti allur atvinnurekstur að vera útdauður á Íslandi. Minnihluti þjóðarinnar, 5-10% hefur beinan hag af atvinnurekstrinum, fær gróðann eða hvatann, meðan meirihlutinn, allir launþegar, fá aðeins lítinn hluta afraksturins í sinn hlut þótt hann sé allur upp . unninn frá þeim. Meirihlutann vantar þess vegna allan "hvata".

Gróði ríkisfyrirtækja.

En lítum aðeins á nokkur ríkisfyrirtæki. Það er nefnilega alls ekki svo að þau séu rekin með tapi.
Landssmiðjan er eitt þessara fyrirtækja sem íhaldið hefur augastað á fyrir hönd umbjóðenda sinna, atvinnurekenda.
Samkvæmt Fjárlögum fyrir árið 1979 á Landssmiðjan að skila hagnaði upp á 20 milljónir á árinu.

Brunabótafélag Íslands hefur löngum verið litið hýru auga af atvinnurekendum, þótt ekki væri nema vegna þess að það fyrirtæki veitir sumpart betri þjónustu en einkafyrirtækin.
Þetta fyrirtæki á að skila 200 milljónum í hagnað á næsta ári samkvæmt Fjárlögum.

Þriðja fyrirtækið sem hér verður gert að umtalsefni er Ríkisútgáfa námsbóka. Hún á að standa undir sér samkvæmt Fjárlögum. Samt þarf ríkisútgáfan að sjá grunnskólanemendum fyrir ókeypis bókum. Við það má bæta að ef skólabókaútgáfan kæmist alveg í hendur einkaauðmagns þá er alveg öruggt að skólabókaverð mundi hækka verulega eins og sýnir sig þar sem einkafyrirtæki hafa náð undir sig hluta markaðarins.

Á þessari litlu upptalningu sést að krafa atvinnurekenda er sú ein að fá í sínar hendur þau ríkisfyrirtæki sem skila hagnaði þannig að gróði þeirra aukist enn meir á kostnað þess sem fer til sameiginlegra þarfa þjóðfélagsins.



## 8. mars

Eins og áður hefur komið fram í Stéttabaráttunni verður haldinn sameiginlegur fundur Rauðsokkahreyfingarinnar og 8. mars hreyfingarinnar í tilefni af alþjóðlegum baráttudegi verkakvenna þann 8. mars næstkomandi.

Undanfarið hefur verið unnið af kappi að gerð dagskrár þar sem fjallað er um barnið og konuna. Kemur þar fram hvernig afstaða þjóðfélagsins er til barnshafandi kvenna, þ.e. hve erfitt þær eiga með að fá vinnu eða þá að þeim er vikið úr vinnu. Dagvistunarmál verða einnig til umfjöllunar og er lögð áhersla á fleiri barnaheimili og ekki aðeins fleiri heldur er einnig lögð áhersla á aðbúnað þeirra.

Þá verður rætt um grunnskólann, viðhorf barna til skólans og hvernig skólinn endurspeglar afstöðu þjóðfélagsins til barna. Grunnskólalögin eru tekin í gegn, vitnað í úreltar kennslubækur o.fl.

Í dagskránni verður drepið á fleiri atriði, svo sem barnamenningu, æskulýðsmál, kynferðisfræðslu og fóstureyðingar.

Búast má við að þetta verði hinn líflegasti og skemmtilegasti fundur. Til dæmis verður dagskrá̈in að hluta byggð á leikþáttum og söng.

Því má einnig bæta við að þessi 8. mars fundur er gleðilegur að því leyti að tekist hefur samstaða þeirra tveggja samtaka sem starfað hafa að slíkum fundum sl. ár. Sundrungin í kvennahreyfingunni hefur ekki verið kvennabaráttunni til góðs heldur skaðað hana á allan hátt. Þessi fundur hlýtur að marka upphafið að efldri baráttu fyrir réttindum kvenna.

Stéttabaráttan hvetur alla sem láta sig kevnnabaráttuna varða til að mæta á fundinn og í dagvistunargönguna sem farin verður fyrr um daginn.

Fundarstaður og tími er ekki endanlega ákveðinn en mun verða auglýstur í næsta blaði.

## SHA barátta framundan

Samtök herstöðvaandstæðinga héldu liðsmannafund 24. feb. s.l.. Þar var greint frá starfinu undanfarið og væntanlegum aðgerðum í tengslum við 30. mars. Samtökin ætla sér að standa í stórræðum á lista-og menningarsviðinu auk fræðsluefnis og skemmtanahalds. Um það er ekki nema gott eitt að segja en hitt má ekki gleymast að herinn fer ekki nema barist sé fyrir því.

Því munu samtökin standa fyrir pólitískum baráttuaðgerðum til að leggja áherslu á markmið sín. Það munu herstöðvasinnar einnig gera svo líklegt er að hart mæti hörðu.